# ÍSLENDINGADAGURINN



## 1933

Fertugasta og fjórða Þjóðhátíð
Vestur-íslendinga

# Fjallkonan



(Photo by the Gauvin-Gentzel Co., Winnipeg)

FRÚ JÓRUNN LINDAL

# Íslendingadagurinn

Fertugasta og fjórða þjóðhátíð

Vestur-Íslendinga

—x—

FORSTÖÐUNEFND

| | |
|---|---|
| Dr. A. Blöndal, forseti | G. S. Thorvaldson |
| Dr. Jos. T. Thorson, vara-forseti | Friðrik Sveinsson |
| G. P. Magnússon, ritari | Jón Ásgeirsson |
| Þorl. Hansson, féhirðir | Jochum Ásgeirsson |
| Ásbjörn Eggertsson | Björn Pétursson |
| Stefán Einarsson | Séra Jóh. P. Sólmundsson |

—x—

Haldinn í Gimli Park,

Mánudaginn 7. ágúst, 1933

# Íslendingadagurinn

verður ár frá ári fyrir dálitlum breytingum, svo sem eftirfylgjandi skemtiskrá ber með sér.

Úr nefndinni urðu forfallaðir snemma í vor, þeir G. J. Hjaltalín og Einar Haralds, og voru þá þeir Friðrik Sveinsson og Jón Ásgeirsson teknir í þeirra stað. Auk þess bættust nefndinni í Winnipeg þeir Finnur Johnson og B. E. Johnson, og á Gimli sömu sjö menn sem í fyrra, B. N. Jónasson, Guðm. Fjeldsted, G. B. Magnússon, W. J. Árnason, Th. Thordarson, Hannes Kristjánsson, og Sigmundur Jósefsson, og auk þeirra bæjarstjórinn þar, Christian Paulson.

Sex konur og meyjar í þrennskonar íslenzkum búningi, þær Mrs. K. Jóhannesson, Mrs. L. Johnson, Mrs. G. Finnbogason, Mrs. A. Blöndal, Miss Dísa Bardal og Miss M. Halldórsson fagna Fjallkonunni með þríröddum söng, kvæðis þess, sem hér er prentað á 26. blaðsíðu.

Einn deildarstjóri Eaton's verzlunarinnar, hr. Th. Stone, hefir í svo fjölmörg ár fengið það volduga verzlunarfélag til þess að ljá nefndinni endurgjaldslaust öndvegi Fjallkonunnar og margvíslegan hátíðaumbúnað, að hann er nú með einróma atkvæði nefndarinnar kvaddur til þess að sitja í flokki heiðursgesta dagsins. Er í því fólgin verðskulduð viðurkenning á ræktarsemi sjálfs hans og drenglyndi starfsbræðra hans og yfirmanna félagsins.

Blaðið "Tribune" leggur nú einnig til ókeypis, eins og í fyrra, þau áhöld, sem til þess þarf að veita hljómum söngs og ræðuhalds út yfir allan garðinn. Hr. Björn Björnsson, sem talinn er íþróttamaður í þessu starfi (Radio Expert) ætlar að leggja sig til með manni blaðsins til umsjár á áhöldunum yfir daginn.

Ljósadýrðina í garðinum hefir einn nefndarmaður, hr. Jockum Ásgeirsson, getað tekið í umsjá sína, að miklu leyti vegna góðvildar félags þess, er hann vinnur hjá, The Thos. Scorer Electric.

Er allt þetta eftirtektarverður drengskapur og áhugi, og þakkarverður.

* * *

Sú nýjung, að hin vestur-íslenzku gullafmælis-börn sé leidd í einum hóp til sérstaks virðingarsætis, þykist nefndin vita að muni mælast vel fyrir meðal hinna innfæddu Vestur-Íslendinga. Sjálfum sér gera þeir mestan sóma með því að heiðra sem bezt sína fyrirrennara.



I. PARTUR

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

Íslendingadagsins, 1933.

Formaður Íþróttanefndar: G. S. Thorvaldson

Byrjar kl. 10 árdegis

Íþróttir aðeins fyrir Íslendinga

Hver íþrótt því aðeins þreytt að fjórir eða fleiri keppinautar séu.

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

1.—Stúlkur innan 6 ára, 40 yards

1. Verðlaun .................... .50
2. Verðlaun .................... .30
3. Verðlaun .................... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

---

2.—Drengir innan 6 ára, 40 yards

1. Verðlaun .................................................................... .50

2. Verðlaun .................................................................... .30

3. Verðlaun .................................................................... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

---

3.—Stúlkur 6 til 8 ára, 50 yards

1. Verðlaun .......... .50
2. Verðlaun .......... .30
3. Verðlaun .......... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

4.—Drengir 6 til 8 ára, 50 yards

1. Verðlaun .......... .50
2. Verðlaun .......... .30
3. Verðlaun .......... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

---

5.—Stúlkur 8 til 10 ára, 75 yards

1. Verðlaun .................... .50
2. Verðlaun .................... .35
3. Verðlaun .................... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

6.—Drengir 8 til 10 ára, 75 yards

1. Verðlaun .................................................................. .50
2. Verðlaun .................................................................. .35
3. Verðlaun .................................................................. .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

7.—Stúlkur 10 til 12 ára, 100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

8.—Drengir 10 til 12 ára, 100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

9.—Stúlkur 12 til 14 ára, 100 yards

1. Verðlaun .............................................................. .75
2. Verðlaun .............................................................. .50
3. Verðlaun .............................................................. .35

## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

10.—Drengir 12 til 14 ára, 100 yards

1. Verðlaun .................................................... .75
2. Verðlaun .................................................... .50
3. Verðlaun .................................................... .35









ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

11.—Stúlkur 14 til 16 ára, 100 yards

1. Verðlaun ........ 1.00
2. Verðlaun ........ .75
3. Verðlaun ........ .50

## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

12.—Drengir 14 til 16 ára, 100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.00 |
| 2. Verðlaun | .75 |
| 3. Verðlaun | .50 |

## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

---

13.—Ógiftar stúlkur, 100 yards

1. Verðlaun ........ 1.25
2. Verðlaun ........ 1.00
3. Verðlaun ........ .75

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ

14.—Giftar konur, 100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.25 |
| 2. Verðlaun | 1.00 |
| 3. Verðlaun | .75 |

## II. PARTUR

Byrjar kl. 10 f.h.

Verðlaunakepnin um silfur-bikarinn, glímubeltið og skjöldinn, byrjar kl. 10 f.h. Silfurbikarinn gefinn þeim, til eins árs, er flesta vinninga fær. Beltið þeim er flesta vinninga fær í íslenzkri glímu. Skjöldurinn þeim íþróttaflokki, til eins árs, er flesta vinninga fær.

Hver íþrótt því aðeins þreytt, að fjórir eða fleiri keppinautar gefi sig fram.

Mörkum fyrir vinninga skal skift: 5 fyrir fyrsta vinning; 3 mörk fyrir annan vinning og eitt mark fyrir þriðja vinning.

Verðlaun:—Medalíur verða veittar þeim þremur íþróttamönnum, sem flesta vinninga hljóta. Gullmedalíu fær sá, sem flesta vinninga fær; silfur-medalía verður gefin þeim, sem næst-flesta vinninga hefir, og sá þriðji fær bronzemedalíu. Aðrir sigurvegarar fá borða.

Glíman byrjar að afstöðnum ræðuhöldum.

Eftirfylgjandi skrá skal fylgt, samkvæmt reglum Amateur Athletic Union of Canada. En þó hefir formaður íþróttanefndarinnar vald til að breyta henni ef nauðsyn krefur. Fyrstu, önnur og þriðju verðlaun verða gefin fyrir eftirkomandi íþróttir:

15. Heats 100-yard Dash.
16. Shot Put.
17. Final 100-yard Dash.
18. Running High Jump.
19. 440-yard Race.
20. Running Broad Jump.
21. Half Mile Race.

22. Hop, Step and Jump.
23. 220-yard Race.
24. Standing Broad Jump.
25. Kappsund.
26. Íslenzk Glíma.
27. Dans.

Dansinn byrjar kl. 9 síðdegis og verður í danssal lystigarðsins. Gömlu og nýju dansarnir verða dansaðir.

# JÓNS BJARNASONAR SKÓLI

## 652 Home St., Winnipeg.

Kæru Vestur-Íslendingar!

Mikið hafið þér talað um viðhald íslenzkunnar hér vestra. Þér komuð til þessa meginlands með löngun þess að íslenzkt mál og fleiri íslenzk óðul mættu lifa meðal afkomenda yðar hér, um langan aldur. Ein tilraunin til að svala þeirri þrá var Jóns Bjarnasonar skóli. Hann var stofnaður af Íslendingum í þreföldum tilgangi, að leggja rækt við íslenzka menning; að efla lúterskan kristindóm; að þroska ungt fólk til nytsams starfslífs í kjörlandi voru sem frá Íslandi komum. Lengi vel voru allir nemendur skólans íslenzkir og sterk áherzla hvíldi á íslenzkunámi hans. Á síðari árum reyndist það óumflýjanlegt, vegna þess að Íslendingar lögðu ekki skólanum nægilegt fé til þess hann gæti lifað, að opna hann einnig fyrir óíslenzkum nemendum. Tala þeirra hefir vaxið hröðum skrefum, svo að síðastliðið skólaár voru Íslendingarnir þar í stórum minnihluta. Að vissu er það ánægjulegt, að skólinn nýtur vaxandi vinsælda meðal góðra nemenda af mörgum þjóðum, en Íslendingarnir ættu að nota hann og meta fram yfir alla aðra þjóðflokka í landinu. Þar á sannarlega "blóðið að renna til skyldunnar." Það er aðsókn Íslendinganna, sem vér þráum og þurfum. Sendið oss íslenzka nemendur með þeim ásetningi að þeir leggi stund á íslenzku.

Skólinn finnur skyldleik í öllum þeim hreyfingum hér vestra sem hafa þann tigang að efla með oss það sem er bæði íslenzkt og fagurt.

Af hjarta óska eg Íslendingadeginum allra heilla.

Lifi íslenzk göfgi meðal niðja vorra í Vesturheimi.

Yðar einlægur,

RÚNÓLFUR MARTEINSSON.

III. PARTUR

# Skemtiskrá

Byrjar kl. 2 e.m.

Ó CANADA — Ó GUÐ VORS LANDS

1. Ávarp forseta—Dr. Ágúst Blöndal.
2. Karlakór.
3. Fjallkonunni fagnað.
4. Söngur—Nokkrar vel þektar konur í íslenzkum búningi syngja frumort kvæði.
5. Ávarp Fjallkonunnar—Frú Jórunn Lindal.
6. Kvennakór.
7. Ávarp frá tignum gestum.
8. Blandaður kór.
9. Minni Íslands—
   Kvæði—Þ. Þ. Þorsteinsson.
   Ræða—Séra Ragnar E. Kvaran.
10. Blandaður kór.
11. Minni Canada—
    Kvæði—Dr. Sig. Júl. Jóhannesson.
    Ræða—Dr. B. J. Brandson.
12. Kvennakór.
13. Nokkrar stúlkur sýna "Vefaradansinn." Koma þær fram í íslenzkum búning.
14. Karlakór.

ELDGAMLA ÍSAFOLD — GOD SAVE THE KING

# Ávarp Til Fjallkonunnar

Lag: Þú bláfjallageimur o.s. frv.

Úr minningadjúpi rís mynd þín í dag,
Vér mætum þér öll í helgri lotning;
Frá goðanna heimi þér hljómi gleðilag,
Þú himinborna ljóðs og sögu drotning.
Þú himinborna ljóðs og sögu drotning.

Að eilífu þroskast hin íslenzka sál,
Sem ólst þú á hetjusöng og lestri;
Þó brothætt sé stundum vort kæra móðurmál,
Þig muna samt þín dreifðu börn í vestri.
Þig muna samt þín dreifðu börn í vestri.

Í eyra hvers landa þau máttarorð mæl,
Er manndóm í sál hans veki og hressi;
Og velkominn sértu—Já, komdu sigur-sæl
Og sjálfur Drottinn köllun þína blessi.
Og sjálfur Drottinn köllun þína blessi.

Sig. Jul. Jóhannesson.



# Ísland

Á Íslendingadegi að Gimli

7. ágúst, 1933.

Vér minnumst Íslands ei sem heima þjóð
með arga-þrasi, er fylgir lífsins striti,
en geymum það sem gull í spari-sjóð
og gróðrar-stöð í minning, hjarta, viti.
Í flest vor störf þess saga og óður ófst
sem æfintýra þráður hnoða beztra.
Í fegri hylling Ísland aldrei hófst
en ímynd þess í fjarlægðinni vestra.

Vér tölum stundum öfugt íslenzkt mál,
og oft er tunguhaft á beztu kvæðum,
en bak við ólag einlæg ríkir sál
og æðri sýn en speglast vorum ræðum.
Og það var hér, sem landinn leit á sig
sem lífsmynd, sem er jafnsnjöll öllum þjóðum,
og hét þá, Ísland, æfinlega á þig,
er orka þvarr á hættumestu slóðum.

Og hver veit nema dýrðar draumur sá,
er dreymdi týndan son í útlegðinni
í framtíð eigi eftir þroska að ná
á ættjörðinni, er gleymd hans verða kynni.
Vér elskum þig í ást og von og trú
af ennþá dýpri þörf en skapast heima.
Til himinsins þú ert vor ása brú
og ódauðleikur sá, er spárnar geyma.

—Þ.Þ.Þ.

# Canada

Vér Eddurnar lásum ungir heima;
Þær eilífa dýrð og speki geyma.

Um allt það, sem var og er og skeður
Með alskygni sinni völvan kveður.

Hún kveður um forna dýrðar daga,
Um drenglund í heimi réttra laga.

Um anda gullsins í gyðjulíki,
Sem goðunum steypti' úr himnaríki.

Um dygðir og líf, sem dauða verjast
Er djöfull og guð um völdin berjast.

Hún kveður um heim í báli brunninn,
—En birtir að lokum sigur unninn.

Já, sigur hins góða, göfga, sanna,
Og goðheim á rústum hörmunganna.

Og Gimli kallað—þar grimdin víki—
Er goðanna nýja himnaríki.

Hún stór er sagan, er sagði völvan
Um "syndafallið" og gullsins bölvan.

Þó gerist nú aftur sama sagan,
En sjötug-flóknari gamla þvagan.

Því hér er nú allt í báli og brandi
Og bölvun ríkir í hverju landi.

Vér sjáandi skyldum sönnu trúa,
Að sjálfum sér væri heimska að ljúga.

Og fóstra!—í þessu stóra stríði
Þú stendur með þínum skifta lýði.

Á hólminn er komið, á kappann reynir!
Úr kryppunni réttum! Stöndum beinir!

Þó skelfingum hóti skapatröllin,
Það skömm er að flýja glímuvöllinn.

Að fornhelgum sið á stokk vér stígum
Og strengjum þess heit; unz dauðir hnígum:

Að styrkja þig, ef þú styður regin
Í stríðinu þessu Baldurs megin.

—Sig. Júl. Jóhannesson.

